# Eru-miñing

## Eins af þeim betstu moñum
sem lifad hafa-Islande,

# JONS JONSSONAR

Hvor eftir ad Hañ hafde þienad

## Kongenum og Publico

Sem Landþings Skrifare, sydañ Syßlumadur i Eyafiardar Syßlu og Klausturhaldare til Muncha Þveraar Klausturs

## Endade sitt Lyf i goodre Elle at 80 aare,

þaa Datum skrifadest 1762.

ad forlage

## Hans Einka Doottur,

# MALFRIDAR.

Prykt i Kaupenhavn aared 1769.
Af Directeuren yfer Hans Kongl. Majsts. og Universitetets Bookþryckerie, Nicolaase Christiaan Høpffner.

    

# Lik=Texte

## Eftir

## Saal. Syßlumannen JON JONSSON.

---

1 Sam. Cap. IIX, v. 2. 3. & 4.

**Ænn eg em nu ordenn gamall og graahærdur, og miner syner eru hiaa ydur &c.**

Þeße Texte var af Profastenum, Hr. SIGFUSE JONSSYNE, j þesta maata utlagdur og heimfærdur j eirnre Lik=Predikun, hver þryckiast atte aa Hoolum, efter Vidkomenda Begiæring; eñ so sem þad hindradest og Manuſkripted var sendt til baka fyrer utañ Approbation; So læt eg Underskrifadur alleinasta þrickia Vitam þeß Saal. Mañs og þau Likvers sem gooder og Miøg=Vellærder Meñ hafa kveded hønuñ til verdigrar Æru.

---




# COMPENDIUM VITÆ.

I Þvi Dauda Leone, sem er Dyranna Høfdinge, fann Samson Hunáng fordum, er Hañ vejk affsides ad skoda þad, Jud. 14, 8. Þegar Vier vikium vorre umþeinking, lited til Sidu, ad skoda Minning þeß framstigna good-Hofdingia Saul. Syßlumañs JONS JONSONAR, finnum vier þar velsmackande Hunáng, og Hunángs-Eim, margra Christelegra, margra Høfdinglegra Mañkosta og Dygda.

Hvad er sætara enn Hunánged? Søgdu þeir sem riedu þá gátu er Samson frammsette ut af þessu Tilfelle, lika sem þad være eckert; Eñ Dygdeñ er ad visu hveriu Hunánge sætare: Hvad skilde oß þá Liufara, eñ ad forlista oß, i þvilikra Mañkosta áheirn og umþeinking? Er smackar betur eñ Hunáng um ad tala, og ilmar betur eñ Hunáng af ad frietta; Eñ Lifs-Sagañ er sem filger:

**Hann er borenn og barnfæddur ad** Hraunum i Fliootum innañ Hegraness Syßlu, árum efter GUds

 Burd

Burd, ad þvi sem næstverdur Komest, 1682. edur=83. i helgu Hioonabande, af goodum og Guldhræddum Forelldrum. Hañs Fader var Velaktadur Heidurs Mañ JON SVEINSSON, er i þañ Tima bioo a Hraunum, og hiellt Fliioota=Umbod af Hoola-Biskupe.

Fader JONS var sa Haalærde Kiennemañ Sr. SVEINN, sem hiellt Bard-Stad i Fliötum; Enn Mooder BIØRG OLAFS DÖTTER. Fader Sr. SVEINS var JON, boonde a Siglunese; Eñ Mooder STEINVÔR Kviña JONS. Fader BIARGAR var Sr. OLAFUR ERLENDSSON a Breidabólstad i Vesturhöpe; Hans Kviña SIGRYDUR ÞORVARDS DÖTTER. Fader Sr. OLAFS, var Sr. ERLENDUR PAULSSON a Breidabólstad, Hanns Kvinna BIØRG KRAKS DÖTTER. Fader PAULS var GRYMUR PAULSSON, er bioo a Mødruvøllum i Eyafyrde, Syßlumadur i Þyng-Eyar-Syßlu. PAULL Fader GRYMS, var Sonur BRANDS Løgmañs JONSSONAR, ARNFINNSSONAR Edal=Mañs og Hyrdstioora a Islande.

Moodur=Ætt BIARGAR OLAFS DÖTTUR, sosem hun er taleñ af þeim Haalærda og Fornfrooda Mañe Saal. Sr. EYOLFE JONSSYNE a Wøllum, verdur vidtlôftigre, eñ ad hun kuñe hier a þeßare Stundu uppreicknast, hun er og rakeñ til LOFTS Hins Ryka GUTTORMSSONAR, sem var Riddare, eda Islendskur Adals=Madur, og til BIØRNS Hins Ryka THORLEIFSSONAR, sem og var Riddare og Hirdstioore.

Moodur=Fader BIØRNS Hins Rika, var BIØRN JORSALA-Fare, sem eirneñ er sagdur vered hafe Riddare, og

og er þesse Frænd-Baulkur miøg Gøfigur og Nafnkunnigur, og oft til forna i Gøfigra-Manna Lifs Søgum framm̃talenn.

Mooder Saul. Sysslumannsins Jons Jonssonar, var Helga Guttorms Dötter, hennar Fader Guttormur Jonsson, bioo aa Hraunum i Fliootum, hverier hanns ættmenn, eda Forfedur vered hafe, sinnum vier ecke uppteiknad. Mooder Helgu og Kvinna Guttorms, var Malfrydur Illuga Dötter, hennar Fader Illuge, var Raadsmadur aa Hölum. Fader Illuga var Jon Boonde Illugason, aa Einarstødum i Reikiadal. Fader Jons var Sr. Illuge Gudmundsson Prestur i Muula; Mooder Jons var Malfrydur Döttur Sr. Jons Finnbogasonar, og þadann verdur þesse Lina rakenn til Finnboga Løgmanns, og Malfrydar Kvinnu Hanns Thorfa Döttur, Riddara og Hirdstiora. Mooder Malfrydar Illuga Döttur var Halldora Skula Dötter, Syster Herra Thorlaks Biskups aa Hölum, Fader Halldöru var Skule Boonde Einarsson aa Eyreksstødum i Svartaardal, hanns Kvinna enn Mooder Halldoru var Steinunn Laun-Dötter Herra Gudbrands Þorlakssonar Hoola-Biskups, Hanns Ætt er nafnfræg og Fleirstum̃ Kunnig.

So sem hier af er nu synelegt ad Saul. Sysslumadurenn Jon Jonsson er komenn af hinum aagiætustu Monnum, er vered hafa i voru Fødurlande, so svarade Hans Liferne og at giørse i allann Maata til syns ættgøfigleika.

I Firstunne var hañ strax efter þa natturlegu Fæding, endurfæddur af vatne og anda i þeirre H. Skirn, hveria þioonustu hønum veitte Hañs Fødur Brooder, þa verande Capellan a Barde Sr. Jon Sveinsson; Uppoolst hañ sidañ i GUds ootta og goodum Sidum, Firsthia Fødur Fødur synum, adurnefndum Sr. Sveine a Barde, og efter Hañs Afgang, i Foreldra Husum, alt þar til Hañ var i Sköla settur a Hoolum, sem meinast vered hafa a Hañs 12ta Æsku=aare, hvadañ Hann var med agiætu Testimonio honorifice dimitteradur 1704. af þa verande Rectore, og sidar Loflegum Biskupe Skalholts-Stifftes, Mag. Jone Arnasyne; Hvilika audsveipne og þægelegheit, hañ audsynt hafe sinum Schola-Meistara, ma þar af marka, ad Biskupeñ hiellt Hañ fyrer siñ betsta Vin og Kiærasta alla þeirra Lifdaga. Strax efter sina Dimission fra Skolanum, gaf Hañ sig i Sveins Stiett hia þaverande Biskupe a Hoolum Mag. Byrne Thorleifsyne, hver þienusta þoo ei leingur varde eñ eitt ar, þar Hañ var af Syßlumañe og Klausturhaldara Sal. Lauritz Schewing Kalladur iafnskioott til Diakna=Embættes a Mödruwallna-Klaustre, so sem Hañs Diakna=Bref utgiefed af adurnefndum Biskupe Mag. Byrne 1705. auglïser. Veik Hann so sama ar til Mödruvalla-Klausturs, hvar Hañ, med stærstu Mañprýde og Kostgiæfne Sig uppfærde, so vel i tiltruudu Diakna Embætte sem og i Oeconomiskre þenustu sins Kiæra Hußboonda, hvern Hañ fra firsta til sydasta elskade, og framar flestum antignade.

Ared 1708. bar so til, ad Velnefndur Syßlumann Scheving orsakadest uppa eitt vigtugt Mal ad sigla Hiedann

dann af Lande til Kanpenhavnar, fieck Hañ þa þennann siñ Klaustur Diakna sosem Amanuensem, ad giefa sig med til þeirrar Reisu, hvad þeß audveldlegar tookst sem Hañ Siaulfur, af iñgrooeñe austuudan til haurra Hluta, hafde stoora List og Efterlaungan ecke einasta ad siaa framande Stade, helldur einkañlega ad upplisa sinar Sinnes Gaafur, og audurlagdañ goodañ Menta Grundvøll, vid þad biarta Lærdoms Lioos, er logar aa þvi Kongl. Academie, hvad Honum eirneñ veittest og velluckadest, so Hañ litlu efter sina þar Komu, nefnelega i Decembri 1708. og ad yferstødnu sidvanalegu Examine, var inteкeñ i Riett og Tølu Studentaña, og þoo Hañ ad mestu daglega binde sig vid þienustu sins Hußbonda, forsoomade Hañ þar fyrer ei, þaug sidvanalegu Exercitia Academica, helldur iñfañ sig til þeirra Kostgiæfelega, so sem eñ nu vitnar þad Attest er Hans privat Præceptor Saal. Herr Professor Steinbuck hefur med eigenn Hende meddeilt.

At nærsta Sumre kom Hañ ut hingad aftur med synum Hußboonda, og bleif eñ nu first i hiñe sonnu þienustu sem aadur hafde, iñ til þeß Hañ aared 1712. var Allranaadigast beskickadur til Vice-Landþingsskrifara aa Islande, med Samþicke og Begiæring þeß virkelega Landþings Skrifara Sigurdar Sigurdssonar, sem eirneñ var Syßlumadur i Arnes Syßlu, og hafde vel fleirum Erindum ad giegna, so Han fañ sig oftlega orsakadañ ad þyggia, þeßa sins nya Vicarii Þienustu i Løgþynges Rettenum.

I þeßu Stande uppehiellt Hann sier eñ nu 4 Aar a Mödruvallna Klaustre, so sem Stod og Stitta sins Husboonda i Hañs Embættes-Søkum, þar til Ao. 1716. Gude þooknadest ad farsæla Hañ med ejnum Raadahag, flutte Hañ sig þa til Grenewykur i Høfdahverfe, og gieck ad eiga Ærugøfiga og Margdygdum prydda Jomfru GUDRUNU ÞORARENS Doottur, frañfoor þeira opeñber Trulofun samastadar, og a sama are þañ 12ta Junii; Eñ Bryllup og Brudarvygsla þañ 29 Septembr. i margra Gøfigra og goodra Persoña Vidurvist.

Þetta þeirra Hioona-Band hefur GUd bleßad med 2 af Kvæmum, sem bæde eru eñ nu a Life, og uppskiera heilnæma avoxtu goodra Verka og Velgiørninga, er þeirra loflege Fader hefur uñ sina daga nidursaid; Nefnel. Ædla Velvis Sr. THORAREN JONSSON sem nu er Kongel. Majest. Syslumadur i Vadla-Þynge, og Velædla Dygdaudig MALTRYDUR JONS Doottер, sem nu er Hustru Velædla Havitur Kongel. Majest. Løgmañsins, Nordañ og Vestañ a Islande, Herra SVEINS SØLVASONAR.

Hiñ Sal. Høfdings Madur hefur ei heldur fared a Misvid GUds giædsku fulla Fyrerheit i þvi ad sia sin Barna-Børn af hverium nu eru 10 Saler a Life; Enn 5 allareidu a undañ honum i dyrdena inkalladar.

Framar þoocknadest gude ad prida Hañ med ødrum farsællegum Hlutum i þessu Stundlega Life, so sem

sem eru Metord og Manna Forraud. ared 1722. var hønum asamt Sysslumañe HANNES SCHEVING veitt Munka-Þveraar-Klaustur til Forleeningar, og aftur 1727. þegar velnefndur Sysslumañ SCHEVING var andadur, ødladest Hañ Kongel. Allranadugstu Bestalling, fyrer Vadla-Sysslu, hveria Hañ þadann af hiellt til Aarsins 1748. Þa Hann, vegna adsigande Alldurdooms Vanburda, afstood heñe friviliuglega, til sins adur velnefnds kiæra Sonar, med Kongel. Leife og Stadfestingu.

J þessu sinu Sysslumañs-Embætte, so vel sem himum ødrum, uppfærde Hañ Sig, ecke alleina Ouppaklagañlega, so alldrei nockur eirn af Hanns underhafande fann Orsok til þess, ad afria Hans adgiørder fyrer ædre yfervølldum, heldur og so var Hann bæde af meire Hattar og miñe elskadur, og aktadur framar flestum sinum Ordens-Brædrum, og til hiña vigtugustu Mala qvaddur.

Tilsettur var Hann ad Præsidera uppa Stift-Amtmanns Vegna, i Badum Consistorial Riettunum hier a Lande. J þvi Nya Laga-Verke, sem hiera Lande skillde samanntakast, var Hañ eirn Medal Þeirra 4ra Vitrustu og fornemstu Sysslumanna, tilnefndur ad sitia og radslaga, So sem þad Kongel. Rescript dat. Fridrichsborg 1732 utvisar. So og lika var Hann af Kongel. Majst. tilskickadur Commissarius, asamt Sal. Landfogeta Vult, i þvi vigtuga Prentverks Male, mille Biskups Mag. STEINS JONSSONAR, og Erfingia Biskupsins i Skalholte, Mag. ÞORDAR ÞORLAKSSONAR.

Og þoo hier sie ei frekara upptaled, af Verkum þeß Saal. Manns, vitum vier ad þaug eru laungt fleire, sem teliast mættu, einkum maa hier gieta Hanns Ydne og Astundunar i þvi, ad utleggia aa vort Mål gőd og uppbyggeleg Skrif lærdra Manna, sem enn nu efter Hann liggia in Manuscriptis, lika ad hallda aa Loft Nitsamlegum Kvedlingum til þrickingar, bæde utann og innann Lands, þaa sømu ad promovera.

Med ollu þeßu veitte Hann sinu eigenn Huse þaa betstu Forstodu, so Hann hafde alltid anægannlega Gllds Bleßan, ecke einasta fyrer sig og sitt heima Foolk, helldur ydduglega og daglega utbitte, gaf og laanade, Giestum, Gaangande og sierhoerium þurfande, er aa Hanns Fund Komu. Uppool mørg Faatæk og Fodurlaus Børn og uppfrædde þaug sem einn Kiennemadur i Saalhiaalplegum Lærdoome, þvi ad allra Kunnigra Manna Vitne, var Hann so vel mentadur og Bygdur i H. Ritningu, og andlegum Hlutum, sem hinum Veralldlegu. Edur hveriar eru þær gaafur, Mentir, og Iþrootter, sem þesse Saal. Høfdings Mann hafde ei umm framm flesta sina Landsmenn til ad bera: Hann var hinn Maalsniallaste og Skåld gott. Hinn betste Saungmadur og ågiætaste Skrifare framm til Elle. Hagleiks-Madur og Marga Hlute velkunnande. Ad ødru likamans Haattalæge var Hann velfarenn, og fullkomenn Karl-Madur ad ollum Vexte og burdum, Hinn Hofdinglegaste bæde aa Fæte og i Sæte, Skøruglegur fyrer utann allann Hofmood, eda Sundurgierdar-Læte, gladvær fyrer utann øll liettferdugheit, og Hoofsmadur umm alla Hlute.

Enn

Enn þad sem Coronar alla aldurtalda Mann=Koste, var Hañs gudrækne, hveria Hann so miøg ydkade, ad aldrei i sinu Huse liet Hann nockrar Veraldlegar Sysslaner hindra sig frá synum bænagiørdum Kvøld og Morgna, fyrer utann þad sem Hañ i øllu synu Framferde og athøfnum augliste sig ad vera einn Sanndristenn, og þá Hann sat med Vinum sinum, var hønum eckert inndællra, enn ræda umm GUd, og gudlega Hlute, Hann vitiade GUds=Huß med allre Kostgiæfne, og so leinge Hañs likamans Kraftar þar til endtust; Enn þvi framar sem hiner sømu, efter aldurdoomsins Edle fooru hnignande, og hyndrudu Hann frá Veraldlegum ummsvifum, þvi meir ervidudu Sálar=Kraftarner, i Hanns Gudræknes ydiu og alvarlegre áistundan.

Hann Siálfur, sem i lifenu var Foragtare af allre fáfeingelegre Hroosun, vilde ei heldur ad sier framlidnum láta giøra stoort ord á sinum dygdum og goodverkum, þvi látum vier þar um uttalad, enn er þoo ei meir enn hálftalad, i vißre Von, ad dygdenn, sem er Siálf sin eigenn Verdlaun, mune æ og æfenlega uppehálda Æruminning og ágiætu Nafne þeßa ypparlega Høfdingia i voru Lande; Enn nu er framar ad Minnast á Hanns farsælann utgáng af Heimenum.

Mestann part æfe sinnar hafde GUd giefed hønum gooda likamans Heilsu, og vardveitt Hañ vel frá øllum Slisum og áføllum, sem þoo margann hender er i minne utriettingum eiga ad standa; Enn á efra aldre, eda umm Siounda=Tugs=Skeid, tilfiell hønum Sioondepre, sem hyndrade Hann frá Skriftum og Lesningu

 leinge

leinge i señ, foor þeße brestur i vꝛxt, efter Hendenne; Enn ei ad sidur sai Hann þoo ødru hoerin ai book, allt til hins sydasta Mißeris alldurs Sins, Klæddest Hañ eirnig daglega, og kom af Sæng sinne til ad giegna Naud synlegum Erindum, bæde Heimiles og adkomande Maña. Slikre Veniu hiellt Hañ hinn sydasta Vetur og vor æfe sinnar; Jafnvel þoo aldurdoomurenn þreingde þai enn framar ad Hans likamans Krøftunum, sierdeiles med briooſtveike og andvøkunum.

Þann 8da Maij a. p. var Hañ aisamt sinne Kroßmæddu Edla gøfigu Egta Hustru þioonustadur og hlut takande giør i H. altaresins Sacramente, ad undanngeingeñe gudrækelegre Jatuingu og christelegum underbuninge; Enn medann þad H. Verk frammfoor, hafde Hann valla Stirk ad sitia vidborded i sinne Svefn-Stofu. Þar efter uxu briooſtvejkindenn, fiekk Hañ þai yduglega stoorar Hoosta Hvidur med andþreingslum: Mællte Hann þai Jafnann, ad GUd Munde ei leinge þiai sig, senn munde Hann hiailpa. Synde Ha þai enn, ad Hañ var Elskare GUdsords, hvert Hann liet þai yduglega hiai Sier lesa: Minkudu þai dag frai deige Likamans-Kraftar; Eñ Hañs andvarpaner til GUds hielldust vid Dag og Noott, hafde Hañ og Mail framm til dauda þær ad frammflitia, þoo Naustenn være miøg Laig.

Þann 24da Maji, sem ad var Mannudaguren fyrer næstlidens Aars Hvyta Sunnu, liet Sai Hofdingenn yfer GUds Her, under hvers Merkium Hañ stridde, Sigurvinningaremnar sælustu Stund frammskina, og

fyrer

fyrer eitt Saaluhiaalplegt andlaat, utlejdde Hañs Dyr-Keiptu Saalu af Fiotrum daudlegs Holds, til Endurlausnar, Sigur-Hroosunnar, frame fyrer Stoole GUds og Lambsins; Enn Hañs frammljdne lykame, var þañ 3dia Junii, sem ad var Føstudagnreñ i Fardøgum, med æru og soomasamlegre Vjdhøfn, færdur og fluttur i Naavist Hañs Velædla aastmanna, til sins roosama bustadar medal GUds Barna i Kyrkiu gardenum ad Høfda i Høfdahverfe.

Nu er Hlutureñ falleñ hønum i vil hid listelegasta aa Himnum, ad standa frame fyrer Stoolnum og lambenu, skinande þar sem Sool umm Oendannlegar alder. Dyrd sie gude i upphædum fyrer Hanns Saaluhiaalplegt Frelse! GUd allrar Huggunar hugsvale Hañs |efterþrejande Eckinaaungurbitnum anda. Hañs Børnum og aastvinum er sakna Hañs, adhiukre Fader Miskun semdanna, og giefe oß øllum ad bida farsællegrar Vnrt-Farar af þeßum Heime. Enn ydur Velæruverduger, gofuger, Æruverduger, Vjrduglegerog Velforsookter Hofdings- og Hejdurs-Meñ, laata hier med aastsamlega þacka ydvarn gooda Kiærlejka og Efterlæte, er sint hafed og syna Muned i yckar Naalægd hier i Stad, vid utfarar-Minning uñigieteus Manns, Hanns efterþreiande Erfingiar; Oskande ydur GUds Naadar adstodar og allrar þeirrar bleßunar, sem Hønum er dyrd ad veita; Enn ydur gledelegt fyrer Lif og Saal ad Medtaka.

## Nockur Liik-Vers
eftir
Pann Sal. Syßlumann
# JON JONSSON.

I.

Af Profastenum,
## Hr. HALLGRIME ELDJARNSSYNE.

Under Danskre Melodie:
Saa tæller vi da ey saa mange Levedage. ꝛc.

Hanns ad marg-irda hroos, er hroos feck alla daga,
Og aller hroosa hier; held og i Skoog ad draga
Vid, eda Vatned ut, vilia flitia i sœ:
Þad er ad bera blis, i biarta Soolar glœ.

Slikur ad visu var, Valdsmadur Eyfyrdinga, Er sat med sooma hier, i Syßlu Eyar-Þinga; Hann sod-dann hroosun fœr, hans minning er so lioos, Eg get þar ei tillagt, utan þad sama hroos.

Innan-

Innanlands aller menn, unger og gamler bæde,
Hvers stands, kostar og kins, kiendu hans Riktisgiæde:
Utanlands foor og floo, fregnin allvida slik: Høfdings-
val virdta rikt, var JON i Grenevik.

Hañs Dygd, hañs Vitska var, viidþekt og Nafn hañs
priidde; So hvar sem heirdest nefnt, hans Nafn þad
ærañ skriidde. Elliñ þvi alldrey gat af hrundid sinum
stool, Ur daudans skugga skiært, skiin þad sem øñur Sool.

Hañs Nai þoo feigi fold, faliñ und grafar miñe,
Hañs Nafn ei funad fær, ferskre smurt blessaneñe. w
Jord þeß ilmur er, allsætur hveria tiid, ai himnum
eñ þoo meir, ilmar su miñing bliid.

Var Tassi lærdoms list, liidum so þekt ad eige,
Grafskriftar giørdest þørf, er geck um alheims vege;
Utañ alleina hañs ad setia Nafned frii: þeim vera þøøk-
te noog: þetta: Ossa Tassi.

So vera siinist noog um Sæla vorn Doomara, All-
þektann Innlendum: Utlendskum kendañ Skara, Ad
siaest ai hans Grøf, ordfai hroosunen slik: Sefur hier
Syßlumann, sai Jon frai Grenewik.

Doma-

Doomare aдur er andaдur forдum дaga; Meſtur eiñ maña a fold, mæler þad heilog Saga, GUd ſialf-ur groof hans Lik, Grafſkrift hans leſum vier: Miñ þioon (ei margord var) **Moiſes dauдur er.**

Eg veit eflauſt ad hañ, er Moiſi var liikur, Hoog-vær af hiarta-trygд, i huſe Drottens riikur, Hefur krinſt himnum a, þeim þeiдurs nafn bootum, Sem tviillauſt til ei nær, Tempus edax rerum.

Eg feck med unun heirt' hans Aefe дygд framtal-дa, Og ad GUd yfer hañ Aeru lagдe Margfaldа. Mitt Votum vantar ey: viliugur þad framtel; Hañ eflauſt heita ma hiñ añar Samuel.

Ofund ſig eſpa ma, og ſitt hælbit ei ſpara; Fyr þreiteſt hun, eñ fær, firдt vorn Sæla Doomara, Lof-ſæld i Lande hier, ja lengra uti fra, Af þvi ſo alþekkt var, hañs æra morgum hia.

Geiſtleg og verдſleg Werk, vanda kuñe margfroo-дur, I Yfer og Under Rett, avann ſier Spektar hrooдur. Hagleiks muñ, hønd og Sioon, hañ bar med ſtoorre liſt: Huſſtioorn hañs vegleg var, viiда þad tilſpurдiſt.

Umfram̃ allt mĩnast mai, hvad miøg var Gudel=skande: I medlæte mildur vist, i mootlæte Obilande, I life Okiassinaill, i dauda trugoodur: I grøf hvi er Hañ Sæll i Hædum blessadur.

Einhendtann eg mig nu, aulite i Vødla hinge; Embættis umsioon vid, i burt' er sai Hofdinge, Utan hann ur hvi bætt, audur hefde med sann, Og feinged adra hønd ÿngre, nær veiktist hann.

Nu hvad skal hier um̃ margt? hann er burt fra oss vikenn: Hans Edla Astviner, eg veit ad søknud mikinn Hafa: Pai huggi best, Hann sem hai grætta feck, Er heirra augnalioos, under helskugga geck.

Hanns Edla Egta Fru, um̃fadme miukt og leinge, Hann sem um̃ hana reirt hefur Sorganna streinge: Allt har til aiñgurs feck, af henne slitid fær, og henne unun gefst, eylif fagnadar skiær.

Son hañs Herr Sysslumañ! sem ad nu Titel bered, Pess maka Moisis, medur Josua vered Styrk=tur, sem styrktist hann, i stioornar Embætte! Ydar og ydar huss, ædstur Gud fader sie.

C Hiart=

Hiartkiære Herr Logmann, hanns einka Doottur-Madur: HannsAst: hanns Augasteinn: hanns afhalds faste Stadur: Ydur og Ydar Fru: Ydar Mooder og Born, Hugge su eina oll, elskann GUds Lyknar giorn.

Alla þar uti frai, er nu siita og sirgia, Ad Daudans mirkur megn, Mikil mennid þad birgia: Huggist i hörmum sin: Hañs er nu komin Ond, Liikamans utlegd ur, i sins Frelsara hond.

O GUd, sem rædur einn, ollu: jai til hins besta: Gef oß nær eitt sinn ai, æfeþraidur vor bresta, Safnast i sama stad, sætasta fagnadar, Uñ eylift alda skeid, Eja værum vier þar!

II. Af

# II.

## Af Profastenum
## Hr. SIGFUSE JONS SYNE.
### Drottqvedid.

1.

Avi! hvad er vor æfi?
Avi! Reisa til grafar.
Avi! Eimdum svisiñ,
Avi! Flug aun tafar,
Avi! Eins og veisid,
Avi! Lykt og Safi,
Avi! hvad amar lifi,
Avi! Daudans krafa.

2.

Giøldum Adams allda.
Eldir heims ad kveldi,
Feldu mañ vid moldu
Mældu aur fra sældum.
Huldu hugar deildir
Hreldu GUds alveldi,
Gieldur alfiørsØlldin
Alldurtila valda.

3.

Christur Konunga bestur
Klæddur holde, Mey fæddur,
Firstur himin-braut hraustur
Er hæddum a Krosi blæddi,
Reisti: ad Gudi gistum
Græddir saara, Naad klæddir.
Ysta Noott er hin besta
Æddi burt daudi hræddur.

4.

Eya!Ølldungar haair,
Eya! Folkvaldir seigi:
Eya! sa Eimdinn lyer
Eya! þeirs' himin þreya.
Eya! þeir a GUd trua.
Eya! þiood a Christs vegi.
Eya! vier aller tiaum:
Eya! gott er ad deya.

5.

Veit eg Saul i sælu
Seiger þusundfaldt Eya!
Þeß er eg Vænstañ vissa
Vora jordu spora.
Ellihnigiñ vard allur,
Øldungur hair ad Vøldum
Gardiñ er geimde fordum,
Grenevik dygdarikur.

6.

Deir Fe, deia Firar:
Doomur roomsælda hlioomar,
Burtuhvarf eñ biarte,
Blifur hroos ad eylifu.
Fødurlaids, Fylkispriide,
(Fniikur er ei ad sliikum)
Snilli bar eins ad øllu,
Uñ of skal hañ ey losa.

7.

Gudhræddur, gedpruudur,
Giafmildur, rauusn fylgde,
Vinteitur, Liitil=laitur,
Laukur ættar, Beiñ sætta.
Einfaldur, Ør raiddeilda,
Añsamur, vondu gramur.
Heilraidur, hreiñ i tale,
Hañ var Soomi Landsmaña.

8.

Bædi Naitturu og Naidar,
(Nai qvidur votta ydur)
Giæsku bar: Giæddur vitsku
Gooddhøfdinge margfroodur.
Lifde þiood losi reisdur,
Lika doo, Soomarikur.
Verdur i miñe maña
Mæringur digdskiære.

9.

Von erad væti braina
Viine hvarma siinu.
Laiti af, er liita
Leidi, og Sal i eydi:
Von er grauti Vinir:
Von er stinie Konañ:
Skortir ey harmur um hiarta
Hari stirn=laida naidi.

10. Grau=

10

Grautum ey, gott er ad vita
Geimdañ Vin fra eimdum,
Ofar Soolu, Saila
Sigre hroosar lioosum.

Fyrir Oß er fariñ
ai feigens hittunſt deige.
Vøkum! Von er ſkeiki.
Veiknr æfe kveikur.

## III.
## Saal. Hr. Profaſts JOHNS WIDALIN
## EPICEDIUM LATINUM.

Qvæ nobis lacrymoſa dedit non proximus annus
Unius fato multiplicata Viri?
Dum mors sæva nimis Grenevici invaſerat oras,
Præcipuumque Decus ſuſtulit inde rapax:
Dum funeſta dies, regionibus invida noſtris
Exſtinxit clarum nomine reque jubar.
Tempore qvô Gemini ſtellato ſpicula limbo
Mittunt in pænas ingeniosa meas;
Tempore qvo Fratres, alias mulcere parati
Terras ut cultu verſicolore micent;

Immittunt informe gelu triſtesque Decembres
    Et rapiunt flores, deliciasque ſolo.
Qvæ nobis ingrata dedit non proximus annus?
    Cum charites doleant funera cruda Viri,
Cum leſſus geminent Virtutum Candidus Ordo,
    Ingemat & Pindi turba novena jugi.
Cum Themis Evſebieque pios de pectore qveſtus,
    Oppreſſi variâ pauperieque trahant.
Unius ob mortem, qvi donec vixerat æqvus
    Arbiter, Aonii pars qvoque magna globi,
Candidus & conſtans, Iro Solamen, & Orbis
    Perverſi Vindex, præſidiumque bonis.
Felix Ingenio, Virtutibus, Artibus, Uſu
    Rerum multiplici, Conjuge, Prole, Penu.
Hinc miranda dedit nobis ea proximus annus,
    Qvod Virtus ſubeat jura vel ipſa necis.
Vivere qvod Pylios, NOSTER, digniſſimus annos,
    Cogatur fatis cedere marmoreis;
Qvod pietas, qvod Cana fides, Aſtræa, Camænæ
    Non ſervent Natum tempus in omne ſuum.
Non ſervent patriæ incolumem, cûi fama perenni
    Pro meritis debet conciliare decus.

At ſperanda dedit nobis tamen ultimus annus
Qvi decreta Dei prodidit æqva minax:
Qvod noſtræ ſenſim feſtinent tempora Vitæ,
Et ſubito mundi gloria vilis eat.
Qvod nos, turba levis, fumos captemus inanes,
Temporis & Spolium, resque caduca ſimus.
Et qvod nos extrema dies exſpectet euntes
Ad buſtum ſemper; nos libitina docet,
Mortis aperta Via eſt, cunctis ſtat ferreus Ordo
Primitias hominum, qvisqviliasque metens.
Felices animæ, qvibus una & ſola voluptas
Verbis & factis, complacuiſſe Deo.
Felices: nam Cœlicolas poſt fata beabit
Æternum, ſummi viſio grata Dei.
Et te felicem, Virtutum exemplar JONA
Ereptum Vitæ poſt tua fata malis.

CORO-

# CORONIDIS LOCO.

Meir, eñ eyskylda min er giør,
Ad miñast aa þiña Jardarfør,
Nu muntu saña, syßladþader,
Miñ sæte og liufe Teingda Fader,

Añadliggur þad eftir Svein,
Yfer grøf þina fieck eg stein,
Sem lagdur er aa Pægar Hlooder,
Miñ þiarta kiære Moodur Brooder.

Frañtalda þeña framde leik,
Fyrer Mægder og Skyldugleik,
Seint munu vorer seiner þagna
A Sæmdar miñingu slikra bragna.



